# Sá luckusæli fadir og kénnimadur, edur prestsins Eberhards efstu æfistundir;

## frásaga,

útlögd úr dönsku af Byrni Haldórssyni, presti til Gardś í Kélduhverfi.

---

Í greifadæminu G. nálægt háu og skógi vöxnu fialli, liggur eitt fagurt og allstórt kauptún, er nefnist Kirkenheim, hvörs innbúar ad biargast bædi af akuryrkiu og handydiu sinni. Yfir 30 ár hafdi öldúngurinn Eberhard verid opinber kénnimadur á þessum stad, og siálfur, af eigin reynslu, sannfærdur um, ad sannur kristindómur í giördu verki, eins og heilög ritníng fyrirleggur, er þad óbrygdanliga medal til ad giöra manneskiurnar dygdugar, rósamar og luckusælar, hvörnig sem ástadt er fyrir þeim; hafdi hann og jafnan, med alvarligum kappsmunum, prísad hann, fyrir sínum söfnudi, og ekkert ómak sparad sínum tilheyrendum, til hughvatníngar ad færa sér hann í nyt. Hans

hreinskilin embættis kostgæfni hafdi ecki heldur verid ávinníngslaus; tídum fèck hann reynt ad christindómsins sannindi, sem hann framfærdi med tilgjørdarlausri og hiartanligri talsgáfu, gengu ómiskrygg-ianliga, bædi úngum og gömlum til hjarta; opt hafdi hann verid vitni til, hvørsu miøg þessi sannindi, medtekin fyrir lífs reglu, hefdu hlutast til ad hugga og fridstilla hans sóknarfólk, sem og til ad styrkia þad og efla þess framfør í hinu góda, og óstaldan séd sín sóknarbørn, undir siálft andlátid, hlýda med þreyíngu á slíkan sannleika, fullrúnadar adhyllast hann, og einasta uppá þá trúar ástædu, glød og fríhuga, stíga þad stórmerkiliga fótmál inní eilífdina. Hann vard og var um, ad nærri hvervetna í Kirkenheim ríkti virdíngar- og elsku-semi til christindómsins, og ad allmargir innbúanna giørdu sannann yfirdrepskaparlausann Guds ótta, í raun og veru, sér ad høfudskyldu, og syndu þad med einu í dygdadæmum framskínandi christiligu líferni.

Hann átti einn einkason, sem ólst upp undir hans náqvæmustu fødurligu tilsjón og umønnun, hvør og líka, med sínu sidgiædi og sannchristiliga þánkafari, verid hafdi hans fødurhiarta til margfaldrar gledi, svo hann bió ad lítindum yfir þeirri hvad af hvøriu dafnandi, og hónum, sem fødur og kénnimanni, svo óseigianliga sætu von, ad hann, á sínum tíma, fengi látid sínum søfnudi eptir sig, þar sem þessi hans sonur átti hlutinn ad, einn hreinskilinn og nytsamligann kénnifødur. Þannig var ástadt, þegar þær morgu

efasemdir og mótmæli, í gégn heilagri ritníngu og hennar mikilvægustu grundvallar lærdómum, tóku — um nærstlidin aldamót — alvarliga umhverfis ad útdreifast. Á þessu hættuliga tímabili kom hinn úngi Eberhard til háskólans í B. og vegna þeirra mörgu sínu, en rángsnúnu, dispútatsíu-listar áráfa uppá christindómsins sannindi, sem hann þar heyrdi framfærdar, jafnvel af lærimeisturum, sem vóru í áliti, og fyrirlagdar í því málsæri, er var svo miklu framar tælandi, sem þad, vid öll tækifæri, sýndist ad láta í ljósi heimsspekiligan skarpvitrleika og sannleiks elsku, vegna þeirra ótelíandi dyrsskufullu ásjóngia og háðyrda, ad hvörium hann tídum hlaut ad vera heyrnarvitni, jafnvel af því fólki, sem ad ödrum kosti leit út fyrir ad vera skynsamt og gódfúst, og hvervetna vegna hinnar antachristiligu andagyftar, er sí og æ sveimadi umhverfis hann, leid ecki lángt um, uns hann einnig tók ad reika í þeim lærdóms ástædum, sem hann híngad til hafdi unad svo vel vid ad fylgia. Nú tók hann ad efast um allt þad, sem hann ad undanförnu hafdi álitid mikilvægt og heilagt í trúarbrögdunum. Ad vísu var hann ennú sá hreinskilni madur, sem alvarliga æskti og leitadi sannleikans, en med því hann var siálfur ecki leingur sannfærdur um — einkum ritníngarinnar trúarlærdóma, og vard þess einnig var, ad þad þókti réttur mannkostur og röksemd uppá háleita vitsmuni og gáfna fimleika ad mótmæla og nidur-

drepa þessum lærdómum, þá lét hann og í þessu efni berast undan straumnum, og framsærdi einnig opinberliga, þegar hønum gafst færi á, sínar efasemdir og mótmæli þeim í gégn. Yfir høfud sneiddi hann øldúngis hjá þeim í sínum predikunum, en gaf sig alleina vid þeim sannindum, sem jafnvel hin náttúrligu trúarbrøgd innihalda, og einkum vid lærdóminum um skylduverkin, er hønum syndist hvad sízt yrdi á móti mælt, án þess ad ígrunda hvad lítid þad hjálpar manneskinnum, þó þær viti sín skylduverk, þegar þær ecki jafnframt læra, hvar þær eigi ad fá krapt til ad uppfylla þau. Í þessu ástandi skildi hann vid háskólann, er hann hafdi aflokid sínum lærdóms ydkunum, og kom heim til fødur síns. Nú má hvørr einn nærri géta þessa góda tildúngs felmtran og sorg, þá hann, hvad af hvøriu, komst ad raun um síns sonar umbreytta þánkafar. Enn hvørr einn, sem ad eins med alvørugéfni og hreinskilni æskir og leitar sannleikans, hann plagar ogsvo jafnan ad finna hann. Sá gódi himneski fadir lætur ecki sín villuráfandi børn fyrirfarast í myrkrinu, þegar þau einasta sjálf skúfa ecki ljósinu mótþróanliga frá sér; því komst og líka hinn úngi Eberhard aptur á réttann veg, og hans fødur reis þar af ósegianlig huggun og gledi á grafarbackanum. Fylgiandi tilfelli gaf orsøk til þess:

Amtmadur Birkenfeld, sem einnig bió í Kirkenheim, átti ein son, jafnaldra hins únga Eberhards, hann hafdi ogsvo verid hans skólabródir.

Frá barnæsku höfdu þeir verid trúnadar vinir, og á háskólanum vard þeirra vinátta en þá rótgrónari. Sá úngi Birkenfeld var advokat (málatúlkari) og eitt reitt ágiætt dugandis úngmenni.

Svo bar undir einusinni, ad þessi úngi madur var í dansveitslu nockurri í nærsta kaupstad, hvar hann, vid dansleikinn, vard innekinn af uppþjótandi brádum hita, og strax ad svo komnu drack kaldann dryck. Hér af dró til þess, ad hann feck bólgu í lúngun, sem brádum snerist í mein, og vard med því móti algiørlig uppdráttarsýki. Øll medøl vóru brúkud og allra læknara leitad í því bygdarlagi, en allt til forgéfins. Sá sídasti sagdi hønum skýlaust, ad hann einasta skyldi búast vid dauda sínum, því øll mannlig hiálp væri á þrotum. Í fyrstu sýndist, sem hønum ecki stædi hér af nockur sérligur ótti, og svaradi þessu: «nú í Guds nafni! eg er reidubúinn", en sem hann náqvæmara tók ad hugsa útí sitt ásigkomulag, féll yfir hann sú ángist, sem jók dagvaxandi, og loksins vard svo skélfilig, ad menn jafnvel hlutu ad hafa vardhald á hønum. Hans vinur, prestsefnid Eberhard, heimsókti hann tídum og taldi hønum þær huggunar tølur, eptir vanaligum hætti: ad hann hefdi vissuliga lifad bygdugu og rádvøndu líferni, ad Gud vildi ecki fara í svo nœmann reikníng um mannanna breiskleika, annars segdi þad sig siálft, ad eingin mann-eskia giæti vordid sáluhólpinn o. s. fr. Birkenfeld vard jafnan vid þetta óþolugur og sagdi lok-

síns: «þegar þú ecki veitst nockra adra huggun, þá verú fyrr heima; eg veit betur hvør eg er og hvad eg er!" Þetta lét þá prestsefnid sér ad kenníngu verda, og hélt fyrru fyrir heima. Samt sem ádur gat hann þó ecki med því móti verid róligur, því hann skildi fullvel, af þessu tilefni, hvørsu misg hans gudfrædi var ábótavant, og hvørsu ónóg hún mundi verda hønum, þegar hann á sídan væri ad fullu og øllu vordinn geistligur embættismadur. Vid fødur sinn taladi hann ógiarnan um slíka hluti, því þeim gamla vard ávalt ángursamt; þegar hann merkti síns sonar raungu og skadligu meiníngar.

Medan þessu fór fram, rak í þær naudir med hinn únga Birkenfeld, sem nærri lá vid yrdu óbæriligar, og var fyrir því ad óttast, ad hans hrædiliga óróssemi og stríd kynni ørsaka hønum hastarligan dauda. Um sídir óskadi hann en þá einusinni eptir vini sínum prestsefninu Eberhard; þessi var því sóktur, og hann kom. Í sama bili og hann sté inn fyrir stofudyrnar, hrópadi hinn sjúki hønum á móti med hástri og dymri røddu: "vinur! veistú þá, í þeirri heilu vídu verøldu, eckert medal, veistú eckert á himni né jørdu, fyrir hvørt eg ad eins gæti umstúid fyrirdæmínguna; hitt, ad verda sáluhólpinn, vil eg ecki med einu ordi áhræra, því eg er fyrir laungu búinn ad sleppa allri von um það!"

Prestsefnid. Kiæri, kiæri Birkenfeld! fyrir Guds skuld stilltú þig þó til fridar! Þú ert víst einginn gudleysíngi, einginn þverúdarfullur

stórbrota madur — og Gud er vissuliga, sá eillfi kærleiki og umbunari dygdarinnar, hann mun efalaust koma öllu vel til vegar fyrir þér. Hastarliga greip hinn sjúki málinu fyrir og sagdi: Þeigdu, þegar þú veitst ekkert betra. Þú fær þér til orda um dygdarinnar umbunara, og segir um mig, ad eg sé eínginn gudleysíngi, eínginn stórbrotamadur. O Eberhard! hvörsu lítid þeckir þú mig! íhuga þó ad eins, hvörsu mørg ord hefir eg ecki talad í veröldunni, sem vakid hafa syndugar þánka í þeirra sálum; er þau hafa heyrt; hvörnig þessir syndsamligu þánkar hafa ad líkindum optliga vordid ad syndugum ordum og athöfnum, sem uppá nýtt hafa tælt adra til syndar, og þannig heldur þad ennú sí og æ áfram — sérhvör synd, sem eg hefi drygt, útklekur án afláts nýum syndum og þessu fer svo fram í eylífdinni. Þeinktú nú einasta útí þetta, vinur minn! hvörsu mørg ónytiu ord eg hefi talad í veröldinni, hvörsu mikid dagliga drýgt mótstædiligt Guds vísa og elskuríkasta tilgángi, sem máské leidi þær skadligustu verkanir eptir sig bædi í tíma og eilífd. O minn Gud! minn Gud! mínar syndir standa fyrir mér sem ógnar fiøll, er dagliga vaxa mér í augum, og æ fremur øll von horfin til ad fá þau yfirstígid. Íhuga þessu nærst ogsvo líka, vinur minn! eg hefi verid stoltsinna, eg hefir ecki gétad lidid nockurn mér meiri á hlid vid mig, eg hefir í raun réttri eingann elskad nema sjálfann mig, og því hafa líka þeir einir verid mér gédfelldir, sem

hafa unt mér, og þókt mikid til mín koma; en hafi nockur, jafnvel af sanuri elsku mælt mér eitthvad á móti, þá hefir eg, hvad umgydir, reidst vid hann í þeli nidri, og giarnan haft skapsmuni til ad hefna mín á honum, hefdi eg ei óttast þad mundi verda mér ad vanvyrdu. Sömuleidis þegar eg hefi gefid eitthvad fátækum, þá hefir þad ad mestu leiti skéd, annadhvört til ad hafa þá af mér, edur til ad giöra mér dátt í huga út af minni gódgiördasemi; líka svo hefir eg giarnan viliad ad adrir fengiu ad vita þad, svo eg giæti komist í álit fyrir edalsinni, dánumensku og giafmildi; siá! þessar og adrar slíkar óteliandi vanartir er hiá mér ad finna. Seig mér nú vinur! hvörnig er þad mögulígt, ad ein þvílík vera fái komist í himnaríki, géti lífad og umgeingist med þeim sælufullu öndum?

Prestsefnid. Já! þegar þú ser í þennann reikníng, þá getur víst eingin manneskia vordid sáluhólpin.

Hinn siúki. Þú mátt fara heim þegar þú ecki veist nockud betra. Eg finn til þess diúpt í mínu insta þeli, hvörnig eg hefdi átt ad vera, og hvörnig eg líka hefdi átt kost á ad vera, hefdi eg ad eins réttiliga viliad — o Gud! hvörsu margar gódar manneskiur hefir eg ecki þeckt, sem vissuliga hafa vordid sáluhólpnar, og eg, óluckuskepnan! stend nú fyrir því myrkra vorti, um hvört einn og sérhvör skal inngánga, en einginn fær aptur útkomist, og hefir eingim rád til ad komast hiá þeirri vitund,

að mín eilífu forløg muni verða skéfilig, og eing-
inn — alls einginn gétur géfið mér minstu trúanlig
vonar líkindi um frelsi.

Þessi hinn únga mans bermælta og mikilvæga
synda jáníng, lagðist prestsefninu alvarliga þúngt
á hiarta. Iá, það er satt! sagði hann við siálfann
sig, svona er því varið: syndir afla synda og marg-
faldast óendanliga; þær láta ecki af að verka jafn-
vel í siálfri eilífðinni, og þetta kann ecki að komast
hlutlaust af fyrir Guði. Manneskiunnar sál, svo
saurgud af vanvrtum, gétur ecki verið meðtækilig
fyrir eilífa gleði, og það er mála sannast, þegar
menn þó vilia tala hlutdrægnislaust, reynslan færir
þar nógar sønnur á, að sálin hefur ecki krapt til að
hreinsa siálfa sig; iá, endurlausnarinn er þó nauð-
synligur! og øll þørf á að manneskiurnar fái fyrir
hann hólpnar orðið, svo framt þeim annars skal
hólpið verða. Þú hefur rétt að mæla, Birkenfeld!
verður hønum loks að orðum, þú hefur sannfært
mig, en máské hér sé ecki enn nú øll hiálp horfin.
Sé þér ecki um géð, að eg biðji føður minn að
koma til þín, þá gétur þú sendt yckar vagn og látið
sækia hann. Birkenfeld þeinkti sig um svipstund og
sagði að því búnu: þó eg trúi því ecki að mér sé
en nú frelsis auðið, því eg álít það í sannri raun
ómøguligt, þá vil eg þó samt einnig reyna þetta, og
láta sækia hann. Að svo búnu fór nú prestsefnið af
stað, gékk heim og sagði sínum føður frá øllu er
hinn siúki hefði talað. Nú tók sá aldurshái kénni-

madur Eberhard, med allri andagt ofan húfu sína, lagdi saman hendurnar, leit upp til himins, og mælti med inniligri tilfinníngu: Svo þacka eg þér þá minn Gud! ad þú hefur heyrt mig, og en þá einusinni á æfi minni géfur mér tilefni til ad sýna þann framqvæmdarsama krapt þíns eingétins sonar Jesú Christs endurlausnar í sínum fulla styrkleika. Sídan veik hann sér ad syni sínum og sagdi: ef þú vilt trúa í dag, sonur minn! þá muntú siá Guds dýrd.

Nú var rétt sem hinn gamli postuli feingi nýa krapta; hann lét sækia sinn embættisklædnad, bió sig uppá, og beid eptir vagninum. Þessi kom á ákvednum tíma, og hann ferdadist til hins siúka. Ad prestsefnid hafi ordid samferda seigir sig nockurnveigin siálft. Undir eins og presturinn kom á amtmans Birkenfelds heimili, voru þeir harmþrúngnu foreldrar hins siúka til stadar í húsinu hiá honum, til ad vera vid samfundina.

Presturinn setti sig nidur rétt á móts vid þann siúka og tók til orda á þennann hátt: Kiæri herra Birkenfeld! eg hefi skýrt ydur, firmt ydur og tekid til heilagrar kvöldmáltídar. Frá barnæsku ydar hefir eg verid ydar hreinskilinn vinur. Med inniligri hluttekníngu hefir eg því nú vordid áheyrsla af syni mínum, ad þér séud í ángist út af ydar syndum, og efist um ydar sáluhiálp. Hafid þér þá giörsamliga gleymt öllum þeim rádum, sem Jesú trúarbrögd géfa ydur í ydar ástigkomulagi.

Hinn siúki. Eg hefir ecki svo eiginliga med ollu gleymt því, en upp frá því eg tók ad stunda bókmentir og mér gafst undir ad lesa allskyns nýar ritgiørdir, þá gét eg ei framar lagt trúnad á þad, og þessvegna ecki heldur heimfært þad uppá mitt ástigkomulag.

Prest. Þad kann eg vel ad giøra mér í hugarlund. En er þad þá eckert af því, sem ydar bóklistir og nýrra ritgiørda yfirlestur hafa víssad ydur til, er nú fái ordid ydur til einhvørrar huggunar?

Hinn siúki. Kiæri herra prestur! sé eckert líf til eptir þetta, þá er þad mér nú þegar einn hrylliligur þánki ad verda um alla eylífd ad eingu, og sé þar til eitt líf hinumegin grafarinnar, hvar um eg nú finn mig fullsannfærdann, þá er mín allra ófullkomnasta dygd í allt ofstitlu gyldi til ad giøra mig þar luckuligann; þar skal í sannleika þurfa eitt hvad annad til ad fá stadist med fyrir augsýn hins alvísa en einbert fráhald frá útvortis stórklækium, og þó hefir eg eckert annad, og varla svo vel eg hafi þad, til ad bera fyrir mig. Dygdin giørir manneskiuna luckusæla, en hvad hiálpar mér þad? eg hefir ecki verid dygdugur. Æ! eg er undir nidri í mínum hiartans grunni einn fordiarfadur útskúfunarverdur syndari.

Prest. Meinid þér ad þér séud sú einasta manneskia í heiminum, sem hefur slíka tilfinníngu um sig.

Hinn siúki. Ad mestu leiti virdist mér svo, samt þegar eg ígrunda þad réttiliga, þá eru þó en nú stærri syndarar og gudleysíngiar til en eg, en hvílík munu þá og slíkra afdrif verda?

Prest. Hvørt stærri edur minni syndarar séu til en þér, þad þarf ecki hér ad vera umtalsmál; því vér mannsképnurnar erum allar spilltar af náttúrunni, svo þad er svo þrávalt einasta komid undir kríngumstædunum, hvørt vér verdum þeir mestu eda minstu afbrotamenn; frá rótum erum vér víst allir syndarar.

Hinn siúki. Iá herra prestur! eg skil þér hafid rétt ad mæla, hefdi þad leigid fyrir mér ad uppalast frá úngdómi í hyrduleysi, og hrekiast frá einum bondum sossi til annars, þá hefdu þad makliga kunnad ad verda mín afdrif ad steglast og kiøldragast.

Prest. Øldúngis rétt! mín ogsvo, ef Guds miskun hefdi ecki vardveitt mig.

Hinn siúki. Iá herra prestur! þegar þad er undir því komid, hvørsvegna hefur hann þá ecki líka vardveitt mig.

Prest. Kiæri vinur! hvørnig fáid þér af ydur ad tala svoleidis? hefur þó ecki miskunsemi Guds leidt ydur svo nádarsamliga, ad þad — eins og þér seigid — hvørki hafa vordid ydar afdrif ad steglast né hiólldragast. Látid ydur þó stiórna af umþenkíngu, er þad þó ecki nád og miskun af þeim elskuliga himneska fødur, ad hann hefir látid ydur

ødlast eitt edalligt christid uppfóstur, og leidt ydur þannig, ad þér ecki erud ordinn eu þá stærri syndari?

Hinn síúki. Æ já! en einmidt þetta giørir mig straffsverdan, ad eg svo hrakliga hefi fært mér þessa stóru velgiørnínga í nyt; og hvørsvegna hefir sú guddómliga miskunsemi ecki vardveitt mig frá øllum syndum?

Prestr. Af því hann vill ecki þvínga þá vern, sem er skøpud fríals, og gétur ecki heldur þvíngad hana ef hún á ad nióta síns edlis. Med rádleggíngum, áminníngum, advørunum, já líka vel med því ad láta siá og finna þær náttúrligu vondu afleidíngar af syndinni, leitast Gud, óþreytanliga, vid ad aptra manneskiunni frá fordiørfunarinnar veigi; en þegar mannskepnan færir sér ecki slík — sídferdisliga friálsri veru sambodin — medøl í nyt, þá er henni siálfri, en ecki Gudi, um hennar fordiørfun ad kénna, og hún kann eingannveigin ætlast til þess, ad Gud, med náttúrligum þvíngunar medølum, skuli halda sér aptur af syndinni. Væri svo, þá hlyti hann ad umbreita hennar edli, og þó henni, med því móti, yrdi haldid frá syndinni, þá giæti þad ecki heldur ordid henni tilreiknad.

Hinn síúki. Já þad skilst mér. Eg er þá ogsvo einn syndari, sem hin allrahæsta vera svo leingi og med svo óþreytanligu lánglundargédi, en forgéfins, hefir kostad erfidismunum uppá ad géta frelsad. Siálfur hefir eg giørt mig heyrnardaufann í gégn øllum hans ástúdligu vidvørunum, eingan

hanm géfid øllum samvitskunnar áminníngum, jafn-vel eckert víknad vid þær náttúrligu illu syndarinnar afleidíngar, sem hann þó þráfinnis hefir látid mig verda varann vid. Máské hann samt sem ádur en nú leingur hefdi kostad kappsmunum uppá mína leidréttíngu; en eg hefir af sjálfskaparvitum sett skordur fyrir hans náð, þar sem eg sjálfur, med léttsinnadri ófrámsýni, hefi stytt mína daga. Já eg er sjálfur, einasta sjálfur, ad øllu leiti skuldin í minni ólucku; og þegar eg nú dey, og hlýt eilífliga ad fyrirdæmast, o herra Eberhard! eg finn til þess med óútseigianligri ángist, þá mun það auka — þúsundfinnum tvøfalda mína hørmúng, ad eg á hvørju augnabliki hlýt ad áklaga sjálfann mig sem orsøkina til míns volædis. O! vei mér, ad eg er manneskia, ad eg nockurntíma fæddist í heimin.

Prest. Kiæri, kiæri Birkenfeld! ydar ásig-komulag er hrædiligt, og samt, þad játa eg af heil-um huga, er þad ásigkomulag en þá miklu hræd-iligra, sem þér búist vid eptir daudann. Meinid þér ad Gud ydar skapari viti hvørnig nú er ástadt fyrir ydur.

Hinn siúki. Annars gjæti hann víst ecki verid alvís.

Prest. Meinid þér þá, ad hann med vel-þóknan, edur ad ødrum kosti, med umskeytíngar-leysi fái séd ydar hørmúng?

Hinn siúki. Þad veit eg ecki.

Prest. Eg veit þér hafið umhyggiusamliga lagt ydur eptir þeckíngu Guds verka í náttúrunnar ríki, líka merki eg, ad þér ecki hafid verid sloúngis athugalaus um hans breitni vid siálfann ydur, hafid þér þá ysir høsud komist ad því hann væri ein vond og óbilsinníngasøm, edur ein góð, ástúdlig og syrir sínum sképnum umhyggiusøm vera?

Hinn siúki. Ja! þad segir sig siálft; øll náttúran vitnar um þad, Gud er kiærleikurinn, en hvad hiálpar mér slíkt? siálfur hans kiærleiki — hans kiærleiki vid adrar hans sképnur, hlýtur giøra honum ad naudsýn ad fyrirdæma mig.

Prest. Eg sé mér þad nú ecki til orda; en þér fallist á þad med mér, ad Gud sé kiærleikurinn, ætlid þér þá ad hann med velþócknan eda þá med umhyrdíngarleysi fái séd ydur í ydar hørmúng, sem nú ysirstendur, og hinni sem þér búist vid.

Hinn siúki. Ad vísu þykir mér trúligt, ad hann ecki fái gladt sig ysir því, ad siá mig aumann orm í minni ólucku, hann vyrdir mig máské jafnvel eins medaumkunar tillitis í mínu volædi, en hvad hiálpar mér þad?

Prest. Skyldi hann ecki en þá giarnan vilia hiálpa ydur? og svo framt en nú væri nockurt møguligt medal ydur til frelsunar, mundi hann þá ei inniliga fús til ad brúka þad?

Hinn siúki. En þad er ómøguligt, hann gétur ecki.

Prest. Omøguligt! kiæri herra Birkenfeld! vitid þér þá allt hvad Gudi er møguligt edur ómøguligt? þér hafid siálfur opt látid af ydur merkia, sívan þér tókud svo kostgiæfiliga ad leggia ydur eptir náttúrunnar þeckíngu, ad því framar madur lærdi ad þeckia hana, því fleira uppgøtvadi madur í henni, bædi af því sem møguliga giæti skéd, já líka hinu er virkiliga skédi, og hvørt madur ádur, í sínu fáfrædi, áliti ómøguligt, og því varasamari hlýti madur verda í því, ad fullyrda nockurn ómøguligleika í henni. Sé þetta sannmælt um hinn líkamliga heim, þann hluta sköpunarverksins, sem þó er allra hægast ad rannsaka med skilníngarvitunum, hvørsu miklu framar hlýtur þad þá sannmælt ad vera um skaparann, þá allra hæstu óendanligu, ecki líkamligu heldur andligu veru. Þad er þó í raun réttri einhvør hinn heimskuligasti og bernskurkkasti sérvitríngsháttur, þegar vér daudligir vesælíngar vilium, med ockar skamsýnu skínsemi, einskorda hvad Gudi sé møguligt edur ómøguligt.

Hinn siúki. Þó þar nú væri eitthvørt møguligt medal til ad frelsa mig, hvad fær þad hiálpad til minnar fridstillíngar, þegar þad ecki kémst í verk, eda þegar þad, ad ødrum kosti, er mér ødúngis ókunnugt.

Prest. Kiæri, kiæri herra Birkenfeld! er ydur þad ókunnugt: Svo elskadi Gud veraldruna, ad hann gaf út sínn eingétin

son, uppá það, að hvør sem á hann trúir, fyrirfarist ecki heldur ødlist ey-lífa sælu.

Hinn siúki. Þér meinið endurlausnina.

Prest. Ja! eg meina þetta stóra meðal, sem siálfur Guð hefur oss opinberað til syndaranna frelsis, og fyrir hvørt svo margur einn syndari nú þegar er geinginn glaður frí hyga og róligur inní það ó-komna líf.

Hinn siúki. Herra prestur! hvørnig á eg að meðtaka þann lærdóm, hvørium svo margir skarpvitrir og hálærðir menn øldúngis forkasta, hvør og einnig giørsamliga stríðir á móti mínu eigin heilbrygða mannviti.

Prest. Hvað það fyrra snertir, þá sýnist mér yðar áfigkomulag, nú sem stendur, virkiliga mikils til of alvarligt til þess, að þér leingur skulið láta mannligann myndugleika ráða fyrir yður. Þér eruð svo fróður maður í sagnaritunum um mann-liga þeckíngu, að yður er vissuliga kunnugt um, hvørsu hálærðir menn tíðum hafa fallið uppá að taka þesshátar lærdómsgreinir í forsvar, sem síðar eru alment viðurkéndar að vera øldúngis rángar, allt eins og slíkir menn þráslinnis hafa, að ødrum kosti, mælt á móti og sett sig ákafliga þvert í gégn þeim sannindum, sem sérhvørt óvalið mannvit hefur þó þar á eptir fundið sig sannfært um, að væru með øllu ómótmælanlig. Otrúliga opt og þrávalt hafa

þeir lærdu, ja! þau stærstu vitsmuna höfud í veröldu, látid leidast af bleypidómum, hávaxnum hugmód, stundum heimugligri misunnan yfir annara réttari þeckingu, og stundum af hégómagyrni til ad sýna yfirlæti sitt med einhvörri nýlund, er seingi vakid adgiætni, og med hvörri madur giæti vordid ødrum fremri. Heimsspekinnar saga géfur oss eitt rétt áminniligt dæmi þar uppá. Igrundid ad eins vinur! hvörsu margar heimsspekiligar ritgiørdir — eg skal ei tiltaka nema einúngis sídan trúarbragdanna endurbót skédi — komid hafa á gáng medal vor, sem ad nockru leiti mótseigia hvør annari. Hvílík fásinna þá, ad byggia á mannligum myndugleika, já! á svo voltum og ótraustum grundvelli ad byggia sannfæríngu um sína eylífa velferd edur volædi.

**Hinn siúki.** En þegar lærdómurinn um endurlausnina er ógrípanligur, ódidurqvæmiligur, Gudi óverdugur og ósamqvæmur síuum tilgángi fyrir minni eigin skynsemi, hvøria Gud siálfur hefir þó géfid mér til leidarvísirs.

**Prest.** En þó hann jafnvel vera skyldi ógrípanligur ydar eigin skynsemi, vilied þér þá þessvegna ecki fallast á hann, vilied þér, kiæri herra Birkenfeld! þarfyrir forkasta því medali, sem ydur býdst til frelsunar frá eilífu volædi? Svo framt þér ecki vilied fallast á edur færa ydur í nyt annad en þad, sem þér fáid gripid med ydar skynsemi, so vermid ydur þá ecki leingur vid kakalofninn þó þér friósid

af fulda, svo látið þá ecki vora landbúnadarmenn sjá úr sádinu á akurlendinu, já, kiæri herra Birkenfeld! svo brúkid þá ecki heldur þad ágiæta læknismedal, sem ad vísu ecki giörir ydur oldúngis heilbrygdann, en er ydur þó svo heilnæmt til ad sefa ydar siúkdómsþrautir; eins lítid og ydar skynsemi máské grípur lærdómin um endurlausnina í öllum súum pörtum, eins lítid sáid þér ogsvo gripid hvörnig eldurinn brennur í kakalofuinum, hvörnig þessi brennandi eldur vermir loptid í stofunni, og hvörnig loptid aptur verkar inná sérhvörn hluta ydar líkama, eins lítid getid þér gripid, hvörnig sádkornid, sem lagt er nidur í jördina, sprettur þar upp af, og ber, ef til vill, hundradfaldann ávöxt; já! allt eins lítid sáid þér ad vísu gripid, hvörnig ydar svo mætiliga læknismedal kémur sinni heilnæmu verkun til leidar í ydar siúka líkama; ydar læknir grípur þad máské ecki siálfur, heldur ber kénnsli á þess gódu verkun einasta af reynslunni. Þér vitid, án þess eg þurfi ad tiá ydur þad, hvörsu oss mæta hlutirnir í náttúrunni þúsundum saman í þeim líkamliga heimi, sem menn sjá ecki gripid, og þó leggia menn trúnad á þá, og meta eckert siárverdt ad færa sér þá í nyt, af því menn siá þá ellegar reyna. Skyldu menn þá, í því sem áhrærir þann skilníngsarvitunum ómerkianliga heim og Gud siálfann, ecki vilia fallast á neitt eda færa sér í nyt nema þad, sem þeir géta skilid, og þad jafnvel þó þeir ættu

allt eins vel kost á ad sannfæraft af reynslunni um þess sannindi, brúkunar hæfileika og nytsemi, þá hlyti slíkt þó víst ad vera hid mesta óvit. En þér seigid, ad lærdómurinn um endurlausnina sé jafnvel óvidurqvæmiligur, Guds vísdómi óverdugur og ósamqvæmur sínum tilgángi fyrir ydar skynsemi.

Hinn siúki. Já!

Prest. Svo framt Guds vísdómur ætti ad uppfinna eitt medal ydur til frelsunar, meinid þér þá ecki þad hlyti ad vera svo ástigkomid, ad bædi seingi þad giort hinum heilaga og réttláta møguligt ad fyrirgéfa ydar syndir, án þess ad kreinkia sín løg, og skada þar med adrar síuar skynsemdarfullu sképnur, og líka umbreytt ydar eigin þánkafari og sinnislagi á þann hátt, ad ydar sál verdi hæfilig til ad taka hlut í sælu þeirra himnesku anda.

Hinn siúki. Jú! en gétur endurlausnarverkid fullnægt þessum krøsum?

Prest. Vilied þér heyra mig med athygli — þad er satt, sem þér sjálfur hafid vakid máls á, ad margir af ydar medsképnum hafa ad vísu verid vitni til ydar synda; máské líka af ydar dæmi látid sig tæla til ad giøra sér léttvæga þánka um syndina. Svo framt Gud þá fyrirgiæfi ydur ydar syndir, án nockurrar fullnægiugiørdar, svo mættu þá allir þessir audveldliga þarak bleckiast til ad trúa því ad hinn heilagi og réttláti Gud fari ecki í svo næman reikning um þad, hvørt hans løgum sé hlýdt edur ecki; en nú er sá guddómligi lausnari geinginn í ydar stad,

og hefur, med sinni frívilíugu fórnfæríngu, bætt fyrir ydar yfirtrodslur, og þar med hefir Gud, uppá háttdligasta máta, leidt í liós, ad vísu á eina sídu hans inniligu medaumkun med syndaranum, og óseigianligu laungun til ad frelsa hid fallna mannkyn, en líka og svo á hina sídunu, hans allra hálæitustu vidurstygd á syndinni; og þegar hann nú fyrirgéfur ydur ydar syndir í krapti af þessari lausnarans fullnægingiørd, og med því skilyrdi, ad þér medtakid og tileinkid ydur þá sømu, ad þér álítid ydur í lausnarans persónu straffadann fyrir ydar yfirtrodslur, og alltsvo látid hans fullnægingiørd fyrir ydur leida alla sømu verkun eptir sig í ydar sálu til betrunar, vidvørunar og leidrettíngar, eins og þó straffid hefdi komid nidur á siálfum ydur, þá kynni einginn, med nockurri sanngyrni, láta sig afvegaleida til ad fallast á þá trú, ad Gud skeytti syndinni ad eingu, einginn giæti — ad eg taki svo til orda — hneykslast á því, þó þér feingiud syndaqvittun, edur hlotid skada af ydur veittri nádar ástá. Framveigis hefir Gud, af óútmálanligum kiærleika til ydar, og hinna mørgu þúsunda ydur samsekra, af inniligri medaumkunarsemi, af óendanligri laungun til ad vita ydur í frelsi og luckusæld, gripid til svo yfirregluligra úrræda, ad hann hefir géfid út jafnvel sinn eiginn eingétinn son, og hans sonur, sem í guddómligri veru og vegsemd er eitt med hønum, hann hefir frívilíugliga undirgeingist ydar málefni, og géfid sína eigin, allra heiløgustu, pers-

ónu, ímanneskiuligri náttúru fram, undir diúpustu niđurlægíngu, qvöl og dauđa, til ađ fá ydur frelsad; ef þér nú trúid þessu og fallist á þad — ó, besti vinur! þá gefur ei hiá því farid ad sú inniligasta og þacklátasta elska til Guds og lausnarans hlióti ad uppfylla ydar hiarta, og ná yfirrádum yfir giör-vallri ydar sálu; og þar af leidir þá en framar, ad þér, æ fremur, fáid alvarliga vidurstygd á öllu því, sem hönum er mótstædiligt, á öllum syndum og lystum, sem hann hefir kostad svo dýrt ad frelsa ydur frá, en þar á móti lyst og laungun til ad vera eptir hans sinnislagi, og laga ydur eptir hans heil-ögu fyrirmind; þetta flýtur öldúngis naudsýnliga af kiærleikans náttúru, en nú veit eg þér fallist á þad med mér, ad þegar sönn elska, trúnadar hylli og þacklátsemi til Guds ríkir í ydar sálu, og þegar þar af fliótandi vidurstygd á syndinni, en lyst til hins góda, uppfyllir ydar hiarta, þá séud þér ecki óhæfur til sambúdar vid þá sælu anda, og hlutteku-íngar i þeirra sælu. Endurlausnin er þá þad stóra medal, fyrir hvert Gud, ydar ædsti vinur og vel-giörda fadir, fær frelsad ydur frá syndarinnar straffi, hreinsad ydar sál af syndarinnar saurgan, og búid ydur undir þá sælufullu eylífd; og þetta stóra medal hefir hann verid svo nádugur ad kunn-giöra ydur í sínu eigin ordi, sem med svo mörgum spádómum og furduverkum er stadfest; já, hann er svo nádugur, en þá á þessum alvarligu skiärverdu augnablikum, þá þér líka sem standid á merkium

eylíffdarinnar, og þegar ydar sál, leitandi eptir hugsvölun og fridstillíngu, finnur ad sérhvört aunad medal er tóm nyt fyrir utan kiarna — hann er svo nádugur, seigir eg, en þá ad frambióda ydur þetta stóra medal. Skipbrotsmadurinn þrífur opt í sinni neyd einn veikann fialarstúf ad biarga sér á til landsins, er hann þreyir svo miög ad ná, og þér, herra Birkenfeld! vilied þér þá, í ydar örvæntandi ásigkomulagi, burtstúfa frá ydur því frelsismedali, sem siálfur hinn almáttugi sendir í veg fyrir ydur, og sem nú þegar er búid ad sýna sína velgiördasömu verkun innvortis hiá mörgum þúsundum manna? vilied þér burtstúfa því frá ydur, einasta vegna þess þad er ecki sumum manneskium í öllu til hæfis, sem þó hafa svo þrávalt sýnt ad þeim gétur yfirsést, ellegar vegna þess þér siálfur ecki gétid, med ydar hyggiuviti, sem er svo ófullkomid og svo mörgum hleypidómum og skilníngarvita tálgyrni umsveipad, giörsamliga skilid alla þess náttúru? æ! vilied þér þessvegna forkasta því, sem ydur fær eylífliga frelsad, og láta Gud til önytis hafa audsýnt ydur þad allra stærsta reynslumerki uppá sinn vidqvæmasta kiærleika.

*Hinn siúki.* Nei! herra Eberhard! nei! eg vil ecki forkasta því, sem þénar mér til eylífrar frelsunar. Eg hlýt ad játa, ad mér er nú þegar horfinn margur einn hleypidómur á móti endurlausnarinnar lærdómi, og mér hefir aldrei virdst þessi lærdómur svo mikilvægur inntakandi og ætti-

ligur sem nú. O Gud! sem sér minnar sálar innstu fylsni, hann sér þó ogsvo ad eg giarnan vildi, í minni hiálparlausu hörmúng, hallast ad þessari hiástod — ad eg seigin vildi varpa mér med allri minni syndabyrdi í lausnarans arma, og þyggia hiálp af honum, giæti eg einasta vordid réttiliga sannfærdur um, ad hann í raun og veru sé einn fridþægiari, ad hann og einnig hafi bætt fyrir mínar syndir, og vilie taka mig ad sér.

**Prest.** Kiærasti vinur! eg gét ecki haldid mér frá ad glediast inniliga yfir ydur. Guds nåd hefir hagnýtt ydar siúkdóm til þess ad þér létud leidast til endurlausnarinnar, þess einasta sáluhiálpar medals, og þér erud, í giördu verki, kominn þángad á leid. Nú þegar er þetta ein óþrekiandi rækfemd uppá ad allsheriar miskunari en nú vill koma ydar frelsi til leidar. Efalaust hefdi þad verid óseigianliga miklu betra, ef þér fyrr hefdud fylgt hans nádar raustu; en Guds miskunsemi er ógrípanlig. Varid ydur þó nú ad eins vid því, ad láta þetta hans sídasta kall til ydar verda forgéfins. Afneitid ydar hyggiuvitsmuna sérþókta, og takid, eins og barnid á móti þeirri nád, sem ydur stendur til bóda vegna Jesú Christs. Eg seigir ydur heilagliga fyrir sullann sann: innan skams munud þér ná ad trúa, og þá mun ydur finnast ósktilianligt, hvornig ydur hafi nockurntíma gétad synst christindómsins sannindi mótstædilig skinseminni.

**Hinn siúki.** Kiæri, kiæri herra prestur!

Eg gét ecki framar svarad ydur; mitt hiarta er fullt af óśk og laungun; en seigid mér, hvad eg á þá nú ad giøra, til þess og géti ødlast trú og sannfæríngu.

Prest. Þér eigid ad varpa ydur nidur í duptid fyrir mannanna eylífliga elskandi fødur, og ecki uppstanda fyrr en sá eylífliga elskandi fadir hefir leidt ydur til þess eylífliga elskandi sonar.

Hinn siúki tók nú ad gráta, og prestsefnid skalf og titradi. Herra prestur! ansadi hinn, þér erud mér einn Guds eingill. O, verid þó minn talsmadur hiá fødurnum! Hér féll prestsefnid á kné og kalladi hástøfum: O, þú Guds madur og minn fadir! vertú ogsvo minn! Þetta tók nærri um of á þann æruverda øldúng — en hann styrktist í Gudi, leid einnig nidur á sín kné, upplypti høndum til himins og bad. Nú lá hinn siúki fram á sitt andlit til jardar; presturinn bad: fadir allrar veru! fadir í Christó Jesú þínum eingétna syni! um alla eylífd sé þér þøck og tilbeidsla, ad þú en þá ecki hefir burtnumid þitt liós, heldur kallar en nú, á þessari myrku hrædiligu tíd, volada syndara til ydrunar og umvendunar, og dregur þá til þíns sonar; þinn eylífi kiærleiki, þín miskunandi nád hefir nú einnig dregid þessar tvær úngu manneskiur, sem branda út af bálinu, burt af barmi hins hiálparlausa afgruns. Æ! eg hrópa til þín fyrir þá, og læt ei af ad hrópa, uns þú á bádum þeim hefir algiørliga fullkomnad þitt óútgrundanliga vegsemdarfulla nádar erfidi. Og þú stóri mannkynsins frid-

þægiari! þú sem einusinni hefir lokið borgun, einnig fyrir þeirra syndir, og síðan meðtekið allt vald á himni og jörðu, hvört þú nú, í hásæti þinnar dyrðar, brúkar til þess að giöra syndarana sáluhólpna; lát þinn heilaga anda telia þessum tveimur ydrandi syndurum staðfasta og inniliga trú um, að þeirra syndir séu þeim fyrirgéfnar, eylífliga afmáðar með þínu forlíkunar blóði, og skapa svo í þeim eitt hreint hiarta, og einn nýann sannsærðan anda, er frelsi þá frá allri esasemi! helga giörvalla þeirra veru og giör þá, á sínum tíma, eylífliga sullsæla! Lofstnd minn drottinn og minn Guð! lát mig nú lífa — þinn gamla þiónustumann, fara héðan í friði inn til þeirrar sælu bústdar, því mín augu hafa séð þína frelsun. Amen.

Nú stóð sá gamli Eberhard upp; en prestsefnið lá nú einnig fram á sitt andlit og grét í duptinu. Gott, mín börn! sagði sá gamli; látið ecki af að biðia og hrópa til Guðs, uns þér hafið ödlast sannfæríng um náð og synda qvittun. Hann lét síðan flytia sig til baka heim á sinn bústað. Um qvöldið, kluckan 10 kom prestsefnið fyrst heim með mjög svo grátnum augum, og sagði hinum gamla frá hvörnig til hefði geingið fyrir þeim stúka. Hann hefði en þá góðan tíma leigið á inniligri hiartans bæn, risið síðan upp og kallað með himneskum fögnuði: Hvar eru forelldrarnir mínir? þegar þeir komu, hefði hann ecki gétað þreytst á að lofa og prísa drottinn fyrir það hann væri nú fullhuga í þeirri von, að

einnig sínar syndir væru sér, fyrir Christs sakir, fyrirgéfnar. Hans elska til endurlausnarans væri stærri en nockrum ordum yrdi adkomid, og hann lángadi nú eptir ad deya til ad géta verid eylífliga hiá honum, og so. fr. v. En kiæri fadir! sagdi prestsefnid framveigis: svo vel er en nú ei komid mínum hag, ad þíssu grátbæni eg, af insta hugarþeli óaflátanliga um nád, en mín von er en þá ormagna. Eg hefir upphrokad mér til christiligs kénnara, en dulid þó Christ fyrir mínum tilheyrendum, já! kénnt jafnvel þvert á móti hans trúarlærdómi, med hvöriu eg hefi máské marga hneyxlad, og giört þá reikandi í þeirra trú; þetta er þad sem giörir mig óróligri en frá meigi segia.

Fadirinn. Vertú viss um, sonur minn! ad einnig fyrir þessa synd — svo stór og verka mikil sem hún er — hefir þinn endurlausnari fullu goldid; samt sem adur neita eg ecki þad sé þín skylda, ad koma, hvar sem þú gétur, í veg fyrir vondar afleidíngar þaraf.

Sonurinn. Já, þad er mín skylda, og eg fullnægi fúsliga þeirri skyldu! á sunnudaginn kémur vil eg opinberliga játa mínar syndir, kalla aptur mínar villur, og hédan í frá kénna hreinann trúarlærdóm um Jesum Christ.

Fadirinn. Drottin blessi þig, sonur minn! þú munt efalaust finna nád, og en þá verda eitt blessad verkfæri í Guds hendi, mörgum medmann-

efskium til frelsunar. Hønum sé lof sem heyrt hefir mínar inniligar bænir þín vegna.

Daginn eptir óskadi hinn siúki Birkenfeld aptur prestsfundar. Eptir midian dagin var því einn vagn sendur heim á prestssetrid. Presturinn lét flytia sig til hins siúka, og prestefnid vard nú aptur samferda. Nú var, meir en frá mætti seigia, skipt um fyrir þeim siúka. Herra prestur! og þú minn úngdóms vinur! — æ minn Gud! andvarpadi hann þeim á móti, hvørsu vitstola, hve dárligar, blindar og ógrïsanliga vesælar vyrdast mér nú allar mínar fyrri grundvallar ástædur! nú er mér allt lióst og klárt: sú christna trú finst mér nú einasta skinsamlig. Allar mínar fyrri ímindanir eru eintómir svikiandi skuggar. Hvørsu sie eg nú sldúngis ødruvísi en ádur alla hluti í sannleikans lióst!

Presturinn sannadi allt þetta, og nú fór fram eitt svo inniliga hiartnæmt þacklæti og tilbeidsla, ad allir nærstaddir hlutu rétt sem ad slióta af stad. í tárum. — En þeim siúka var en þá innan briósts ein høfudnaudsyn; hann æskti af øllu hiarta, en nú einusinni til ályktunar, ad nióta þeirrar heiløgu qvøldmáltídar. Presturinn lét fúsliga eptir hønum ad fullnægia þessari hans ósk, og hét ad fá af nockrum gódum manneskium ad gánga til Guds bords med hønum; því hann áleit þad ecki tilhlýdiligt, ad einúngis einn skyldi neyta þessa háleita góda, þar sem þad ætti jafnframt ad vera ein elsku- og samfélags-máltíd fyrir fleiri christna. Þessi þánki

féll þeim góða Birkenfeld mikið vel í géð. Herra prestur! sagði hann: eg hygg, verði slíkt vedrið, að eg géti verið til Guðs borðs i kyrkiunni, og það er mér þó allra gédfeldast, og hvílíkur fögnuður mundi mér þá ecki að því, ef herra More (einn annar christiliga sinnaður síúkur í sókninni) minn reisubróðir á veiginum til dauðans, vildi líka vera með mér. Skyldir þú að eins ecki hafa skaða af því, kölluðu báðir forelldrarnir upp! Eg held það verði ecki, svaraði prestarinn; hvörugur hinna síúku er þó en nú svo þúngt haldinn; já, það væri í sannleika mikið vel tilfallið! bregdtú þér nú af stað elsku sonur til herra More! og komstú að þessu hiá hönum, eg skal vera hér kyrr þángað til þú kémur aptur.

Prestsefnið géck ecki af stað, heldur hlióp. Fregnin um sinnaskipti hins únga Birkenfelds, og hvað fram hafði farið á amtmansgarðinum, sem og að prestsefnið væri orðið annars hugar, flaug eins og eldíng yfir allt kauptúnið, og hver manneskia komst við og féll í stans af undran. Margir glödduzt með háleitum fögnuði, meðal hverra herra More og svo var einn. Yfir höfuð var þetta hvörium einum kiært og gédfeldt.

More tók á móti prestsefninu með innilegri gleði. Guði sé lof og þackir! kallaði hann upp undir eins og hann sá hann, að þér eruð frelsaður. Prestsefnið svaraði: kiæri vinur! eg er að eins á frelsunar veigi. Eg læt ecki af að biðia, uns eg næ

ad sannfæraſt um, ad Jeſús Chriſtur hafi miſkunad ſig yfir mig, og ad eg ſé oldúngis hans. O! þegar ydur einaſta er þad alvara, ſagdi More aptur, þá er ydur hiálpin viſs. Látid ad eins ecki af, eptir Guds ordi, ad halda þann veg áfram, ſem þér nú erud kominn á. Þeſſu hét preſtsefnid og hann efndi þad líka. Nú framfærdi hann ſitt erindi. Herra More tók þeſſum tilmælum undir eins med innilígri gledi, og ſagdi fullum ſtöfum, ad ſér hefdi aldrei gétad audnaſt nockur ſtærri ánægia í veröldunni. Preſtsefnid hlióp aptur ſtrax um hæl til baka heim á amtmansgardinn og ávíſadi þetta öllum til gledi. Sídan fóru fedgarnir heim og ſömdu ſvolátandi undirlag: Þad vóru giörd bod bæ frá bæ, og hvört heimilisfólk í Kirkenheim látid vita, ad bádir þeir ſtúku More og hinn úngi Birkenfeld vildu, á nærſtkomanda ſunnudeigi, nióta heilagrar qvöldmáltídar í kyrkiunni; hvör ſem nú findi hiá ſér eina hreyna og chriſtiliga áſýſíngu til ad ſamteingiaſt fyrir Jeſú Chriſts anda ſamfélag, en nú einuſinni í elſkunni þeſſum tveimur chriſtnu, undir þeirra æſilok, þá væri ſlíkum í ſiálfs-valdi ad gánga med þeim til Guds bords, og vera þá til ſtadar í kyrkiunni til undirbúnings á vanaligum tíma nærſtkomandi laugardag. En þar ad auki var og öllum ſafndarins limum, ad eingum fráteknum, innbodid til ad heyra á — vid þenn-

an undirbúníng væntanliga — predikun, eptir því prestsefnid hefdi, vid þad tækifæri, nockud sérílagi mikilvægt ad framfæra. Ollu þessu var nú líka framfylgt á allar lundir eptir undirlaginu. Prestsefnid valdi undirbúníngs predikunina til sinnar ydrunar og trúarjátníngar, þar ed hønum virdtist hún hlýda hvad best til þess, og hann áleit þetta siálfum sér hinn besta undirbúníng undir þá heilegu qvøldmáltíd. Allur søfnudurinn fylltist ýtrustu áhyggiu og nýúngagyrni til ad vita hvad fram mundi fara eptir middeigid á næsta laugardeigi. Tíminn kom, og nú þegar uppvakti saungurinn mikla athygli; þessi fagri sálmur nefniliga var súnginn: Jesús Christur er vinur vor. Sídan tók predikunin vid yfir þessi ord: (Sálm. 19, v. 67.) ádur en eg audmýktist fór eg villt; en nú haga eg mér, drottinn! eptir þínum ordum. Med glóandi málsnylli sýndi prestsefnid, eins og þessi ord gáfu hønum undir, ad vantrú og fráfall frá christiligum trúarbrøgdum orsakadist optast nær af stoltsinni og hégómagyrni; hann væri siálfur komin ad raun um þad. Menn vildu siálfir skilia allt og útgrunda hvad eina af eiginn dugnadi; og hvad sem menn ecki feingiu útgrundad, því vildu þeir ecki heldur trúa, og þad góda, sem menn ecki giætu giørt af eigin kreptum, þad vildu þeir ecki heldur giøra; svoleidis hefdi því verid

háttad fyrir siálfum sér, og þessvegna hefdi hann farid stórkostliga villt; en nú væri Guds nád og miskun búin ad audmýkia sig, og nú vildi hann líka efna sín ord. Sídan játadi hann med mørgum tárum ad hann hefdi ecki verid ad undanførnu einn christiligur trúarbragda kénnari, heldur einn tál-dragari. Hann hefdi ecki predikad Guds ord, heldur sínar eigin villtu meiníngar; væri því ómakligur framar ad vera einn kénnimadur, og bad þessvegna Gud og giørvallann søfnudinn audmiúkur og ydrandi um fyrirgéfníngu; en hét nú þadan í frá ad kénna þad sem Jesús og hans sendibodar hefdu kénnt og jafnframt fyrir Guds nád ad lifa eptir því, og sv. fr. v.

Adra eins hræríngu høfdu menn ad þessu aldrei lifad í Kirkenheims kyrkiu. Tárin, er ódum hrundu hvervetna, vitnudu um þá tilfinníngu sem hiørtun biuggu yfir. Loksins álýktadi predikarinn med þeirri alvarligri upphvatníngu, ad þeir skyldu þó nú allir sameiginliga med hønum láta sér einnig alvarliga umhugad, hvørnig þad, sem tapad væri, yrdi ad nyu bætt, og hann endadi med einni hiarta-hefiandi hátídligri skriftabæn.

Af þessari predikun komst hvør einn svo vid, ad nærstum allur søfnudurinn vard stadrádinn í ad taka hlut í altaris gaungunni daginn eptir. Í giørvøllu bygdarlaginu var slík hræring og upp-

vakníng, að allir, sem vóru sannchristnir og báru nockur kénsli á framgángsmáta gudligrar nádar, væntu þar af eptir miklum umskiptum til góðs.

Annars dags, nefniliga á sunnudaginn, predikaði prestsefnið út af þessum Christs orðum (Joh. 17, v. 17): helgaðú þá í þínum sannleika, þín orð eru sannleikur. Hér leitaðist hann við að sýna, að biblían væri Guðs orð, og allsvo einúngis sannleiki til sáluhiálpar, og að það væri einúngis fyrir þennan sannleika, að einn christin kynni og ætti að helgast, svo sem eingin kostur væri á helguninni, nema einasta fyrir þann sama. Eptir predikunina fór svo fram sacramentis útdeilíngin.

Báðir þeir siúku höfðu tekið sér sæti í stólum nálægt altarinu, og óskilið sér að neyta qvöldmáltíðarinnar síðast af öllum söfnuðinum. Allt fór nú fram í mikilhæfu og hátíðligu hæglæti, og með hiartnæmustu andagt. Þegar allur söfnuðurinn var nú búinn, komu þessir tveir siúku biúgir og veikburða, krupu niður fyrir altarinu og meðtóku brauðið af prestinum, en vínið af prestsefninu, sem studdi föður sinn við útdeilínguna. Varla var þetta skéð, fyrr en sá gamli prestur féll á kné og hrópaði: Halleluja þér sem dóst á Golgatha! — leið síðan niður fram á andlitið og dó. Prestsefnið

leid knéfallandi hidur hiá fødur sínum og hrópadi: herra Jesú Christe! minn fadir! æ drottinn! miskuna þig yfir ofs! minn fadir deyr. Heili sǫfnudurinn styckjist ad, og sjá! hinn gamli drottins þénari var algiörliga burtsofnadur. Bádir þeir sinku urdu, vid allt þetta, sem fram hafdi farid, sérliga hanburda; þessvegna var farid heim med þá, og þeim komid í hvílu. Sídan var einnig þad æruverda lík borid heim á prestssetrid og sorgad fyrir því eptir þörfum.

More lifdi en þá í 6 vikur, þá deydi hann rósamliga og sáluhiálpliga í fadmi vinar síns prestsefnisins Eberhards, en hinn úngi Birkenfeld drógst en nú vid lífid fram til haustsins, þá hann og svo deydi fullur ánægiu og vonar eylífs lífs, undir þessa sama síns vinar bænagiörd.

Prestsefnid Eberhard hafdi nú, fyrir sín rótgrónu sinnaskipti, lagad sig til ad verda einn ypparligur og ekta evangeliskur prédikari, því bad og sǫfnudurinn í Kirkenheim sinn landsherra, ad hann vildi skikka hann til ad vera þeirra prest; þetta lét hann fúsliga ad þeirra beidni, og þannig vard prestsefnid einn mikid verdugur eptirfylgiari síns sáluga fødurs.

## Um daudann
(eptir Gellert).

Lífstímin, herra! hleypur minn,
hleypur til grafar vegurinn.
Hvad er þad, þó eg hlióti senn
í heiminum lifa nockud enn?
Minstu þíns dauda madur gá,
minstu' ad eitt er sem rídur á!

Lifdu eins og munt óska þú,
á daudastund ad lifdir nú.
Audlegd sem nádi ablast þér,
upphefd þá veitu mennirner,
síst þig í dauda fridad fær,
falla til ödrum hnossir þær.

Ad eins þad hiarta' er elskar Gud;
ad eins samvitskan óflecktud,
er vitnisburd gódan géfa vann
giöra þér daudann sætann kann.
Hiarta hvílíkt sem helgad er
hugrecki' í dauda meddeiler.

Kríngum deyandi þegar þig
þyrpa hiálplausir vinir sig,
þá mun hid hreina hiartans géd
heimin sigra og daudann med.

Dómurinn ei þér ógnað fær;
aðhvarf þitt reyniſt herrann kiær.

Svo þú nú ødliſt hiartað hreint
hrædſtu Gud, biddu lióſt og leynt.
Kvíð ei þó dauðinn byrtiſt brátt;
befala drottni tímans hátt.
Lærðú að óttaſt ecki hel,
ellu helldur því fagna vel.

Sigraðu hel með trauſtri trú,
taladu þannig: veit eg nú
hver hann er, sem eg trúi trauſt,
til hans mun komaſt efalauſt.
Hann, sem fullkomnað hrópaði,
hefur ſvipt dauðann maktinni.

Gack þú í anda' að grafarfolld,
giæt þess að verða hlytur molld.
Seig: herra vyrdſtu ſyna mér
ſiálfur að jarðar dupt eg er;
ſyn þú mér þetta férhvørn dag,
ſvo eg uppfrædiſt með það ſlag.

Kaupmannahøfn 1819.
Prentað hiá Þorſteini E. Rangel.